# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1900. Nr. 7.

## Byggingar.

Prédikan út af 1. Kor. 3, 9—13, flutt í kirkjuþings-byrjan í Selkirk, 21. Júní.—Eftir séra RÚNÓLF MARTEINSSON.

---

Vér hugsum oss lífið sem bygging, húsbygging. Efnið í þeirri bygging er það, sem vér hugsum, tölum og gjörum daglega. Hve áríðanda þá, ef hún á að vera fögr, að vér vöndum hið daglega líferni vort.

I.

En fyrst af öllu er nauðsynlegt, að grundvöllrinn sé góðr, að vér ekki byggjum hús vort á sandi, á neinum þeim grundvelli, sem er hylskinn og óáreiðanlegr, heldr að vér byggjum á kletti, á grundvelli, sem er stöðugr, grundvelli, sem aldrei bifast, grundvelli, sem oss er óhætt að reiða oss á, án þess nokkurn tíma að hika eða hvarfla; og þó byggingin sjálf kunni að nötra, þegar hinir œðandi stormar geysa, þá sé grundvöllrinn eilíflega óbifanlegr.

Það þarf engra útskýringa við, að þessi grundvöllr er enginn annar en Jesús Kristr. ,,Enginn getr annan grundvöll lagt en þann, sem er lagðr, sem er Jesús Kristr.''

Er þá Jesús Kristr grundvöllr yðar, þér heiðruðu kirkjuþingsmenn? Fyrst og fremst, hafið þér valið hann fyrir undirstöðu lífsbyggingar yðar? Í öðru lagi, nú, þegar þér eruð komnir á kirkjuþing, er það hugsan yðar allra, að byggja á

þessum eina grundvelli, og engum öðrum? það hefir komið fyrir í sögu kirkjuþinga vorra, að menn hafa starfað á öðrum grundvelli en þessum eina, sem meðal annars hefir sýnt sig í því, að þeir á skömmum tíma hafa fallið frá trú sinni og gengið í lið með óvinunum. Fyrir utan kirkjuþing er líka fjöldi af fólki voru, sem hefir þotið upp eins og vindbólur og þótzt allt vilja gjöra fyrir hið helga málefni; en svo, þegar eitthvað hefir komið við persónu þeirra, hafa þeir óðar verið horfnir frá. þessir menn hafa óneitanlega verið heldr lausir við hinn eina og sanna grundvöll, ef þeir annars hafa nokkurn tíma þekkt hann og nokkurn tíma byggt á honum, sem er mjög vafasamt. Að ekki hefir borið eins mikið á þessu grundvallarleysi í seinni tíð, í sambandi við kirkjuþing vor, er stórt fagnaðarefni fyrir oss. Og vér gætum náttúrlega látið allt þetta grundvallarleysi í liðinni tíð liggja oss í léttu rúmi, ef það að eins tilheyrði henni; en því miðr er langt frá því, að það sé horfið úr kirkjulífi voru. það eru enn hópar af fólki, í söfnuðum vorum og kirkjufélagi, sem ómögulegt er að reiða sig á, vegna þess, hvað það er grunðvallarlaust, — menn, sem vinna með oss, að eins svo lengi sem það er þægilegt fyrir sjálfselsku-tilfinningar þeirra. það er fjöldi fólks, sem stendr í söfnuði, ekki af því söfnuðrinn er grundvallaðr á Jesú Kristi, heldr að eins fyrir það, að þeir hafa þann eða þann prest. Allir slíkir menn velja sér andlegt heimili hjá einhverjum sérstökum manni, í staðinn fyrir að velja sér heimili hjá guði. þetta er að velja sér grundvöll, sem er óáreiðanlegr, í staðinn fyrir að kjósa sér athvarf, sem aldrei getr brugðizt.

Sumir menn hafa engan grundvöll og aldrei neina staðfestu. þannig megum vér ekki vera. Starf vort á kirkjuþingum og starf vort í kirkjufélaginu utan kirkjuþinga ætti, meðal annars, að miða í þá átt, að gjöra hinn eina og sanna grundvöll mannanna ljósari fyrir sjónum fólks vors, kenna því að þekkja hann, koma því til þess að velja hann fyrir bygging lífs síns, og reyna að opna svo augu fólksins, að það sjái, hvað þetta grundvallarlausa byggingarstarf er háskalegt og hylskið, — hve hætt því er við falli, jafnvel þegar mennirnir gjöra allt í bezta tilgangi.

En, heiðruðu kirkjuþingsmenn, þér eruð ekki of hátt settir til að hlýða á áminningar. Gáið vel að, hvort þér eruð á hinum rétta grundvelli. Enginn kemst svo langt hérna megin grafarinnar, að ekki megi við hann segja: Athugaðu samband þitt við frelsarann.

Með hvaða hugsunum komum vér hingað? Komum vér með hatr í hjarta til sumra manna? Komum vér með hefnd í huga? Komum vér til þess að hrinda vorum persónulegu málum fram? Komum vér til þess að auka vora eigin dýrð og fylgi? Komum vér til þess að beita brögðum? Með öðrum orðum: Komum vér til þess að starfa að kirkjuþingsmálum með því, að byggja á grundvelli mannlegrar eigingirni? Ef vér komum hingað í þeim tilgangi, væri oss miklu betra að sitja heima, og láta aðra, sannari menn, einlægari lærisveina drottins vors og frelsara Jesú Krists, skipa sæti vor hér. Rannsakið hjörtu yðar nú og athugið, hvort sú löngun er sterkust í hjörtum yðar, að byggja á grundvelli frelsarans og þjóna honum með veru yðar á þessu kirkjuþingi. Athugið samband yðar við Jesúm Krist. Vitið, hvort þér standið fast á þeim grundvelli.

Kæru Vinir! Von yðar um sáluhjálp byggist á Kristi ;von kirkjufélagsins um blessan í starfi sínu hlýtr að byggjast á Kristi ; von vor um það, að geta afkastað nokkru á þessu þingi, hlýtr að grundvallast á Kristi. Jesús Kristr er hinn eilífi grundvöllr vor, sem aldrei getr bifazt. Hann er það vegna þess, sem hann hefir gjört fyrir oss, og einnig vegna þess, sem hann hefir kennt oss, bæði í orði og líferni. Hið fyrra er aðal-atriðið: friðþæging hans fyrir syndir mannanna. Vér segjum þetta, þrátt fyrir það, að hið síðara er svo afar mikilvægt, og þvert ofan í staðhœfingar vantrúarmannanna um það, að siðalærdómr Krists sé hið eina, sem oss varði. En hvorugt af þessu megum vér með nokkru móti missa. Vér vitum ekkert annað oss til sáluhjálpar en Krist og hann krossfestan. Ef friðþægingarverk hans væri alveg fráskilið kenning hans, kœmi hún oss að engu liði fyrir hina eilífu framtíð vora. En engu að síðr hlýtr kenning kirkjunnar ætíð að vera grundvölluð á því, sem Kristr kenndi.

Í liðinni tíð hefir all-mikið verið reynt til þess, að tæla oss Íslendinga burt af kletti þeim, sem kirkja vor byggir á. Menningarfélag var stofnað í Dakota, sem gekk út á það, að leiða fólk frá öllum kristindómi. Únítara-prestr í Nýja Íslandi reyndi til þess, að draga alla þar með sér burt af þessum grundvelli, með því, að telja mönnum trú um það, að hann væri sann-lúterskr og neitaði ekki nema einu ljótu atriði í kristindóminum. Únítarar höfðu í mörg ár launaðan trúboða í Winnipeg. Þrátt fyrir allt þetta mikla starf til þess að leiða oss burt af hinum sanna grundvelli vorum hefir árangrinn orðið lítill. Kirkjufélagið hefir komið óskaddað út úr öllum þeim eldraunum, sem það hefir enn gengið í gegn um. Og er það mjög sterk sönnun fyrir því, að byggt hafi verið á réttum grundvelli í fyrstu og að vér höfum staðið á honum fram að þessari stundu. En óvinir vorir eru ekki dauðir. Rétt núna er Únítara-þing í Boston búið að samþykkja að launa að minnsta kosti þremr útsendurum, sem eiga að reyna til þess af fremsta megni að hrekja oss burt af grundvelli vorum, hrekja oss af klettinum yfir á sandinn, þar sem flóðin geta náð oss og eyðileggingin er vís. Þannig eru óvinirnir að ráðast á oss einmitt á yfirstandandi tíð, en vér sjálfir liðfáir; og það, sem verst er af öllu: vora eigin menn, sem standa á sama grundvelli og vér, veitir oss einhverra orsaka vegna mjög örðugt að fá til vor.

Kæru vinir! Ef nokkurn tíma í sögu kirkjufélagsins hefir verið sérstök ástœða fyrir oss til að standa sem einn maðr á hinum óbifanlega grundvelli, Jesú Kristi, þá höfum vér hana nú. Hreinsið hjörtu yðar af öllum hinum saurugu heimshvötum, sem kunna að hafa slœðzt með í förinni hingað. Hugsið að eins um frelsarann og hvernig málefni hans geti orðið bezt borgið í yðar höndum. „Enginn getr annan grundvöll lagt en þann, sem lagðr er, sem er Jesús Kristr.“ Sé hann þá grundvöllr þessa kirkjuþings.

II.

En vér þurfum meira en eintóman grundvöll. Vér sjálfir verðum eitthvað að gjöra. Vér verðum að byggja eitthvað á þessum grundvelli. Að hafa grundvöll og reyna ekk-

ert til að byggja á honum finnst mér líkt því, að eignast pund og grafa það í jörðu. Vér erum ekki eins og ílát, sem að eins tekr við fullmynduðum kristindómi, sem vér svo gjörum ekkert annað við en geyma hann. Miklu heldr er kristindómrinn eins og frœkorn, sem er gróðrsett í mannshjartanu og á að vaxa þar. Mannshjartað verðr því það fyrir kristindóminn, sem jarðvegrinn er fyrir frœkornið. Þess vegna fær líka kristindómr hvers einasta manns einhvern keim af hinum meðfœddu hœfileikum mannsins. Það er því ætíð eitthvað sérkennilegt við kristindóm hvers einasta manns, eitthvað frábrugðið kristindómi annarra.

En allt saman þetta er ekki annað en önnur framsetning á þeim sannleika, að mennirnir mega ekki, hvernig sem á stendr, láta sér nœgja með undirstöðuna eina. Vér verðum að byggja ofan á hana. Þess vegna segir Pétr: ,,Auðsýnið í trú yðvarri dyggðina, en í dyggðinni þekkinguna, en í þekkingunni bindindið, en í bindindinu þolinmœðina, en í þolinmœðinni guðrœknina, en í guðrœkninni bróðurelskuna, en í bróðurelskunni elskuna til allra" (1. Pét. 1, 5—7. Trúin er grundvöllrinn, en dyggðin, þekkingin, bindindið, þolinmœðin, guðrœknin, bróðurelskan, elskan til allra er byggingin.

Hver einstakr kristinn maðr á að byggja, og bygging hans á að vera fagrt líferni. ,,En enginn lifir sjálfum sér og enginn deyr sjálfum sér." Vér verðum að muna eftir því, að vér erum drottins og einnig hver annars. Kristinn maðr gjörir aldrei rétt í því, að skorast undan að taka þátt í kjörum meðbrœðra sinna. Hann verðr að taka þátt í bygging þjóðar og kirkju. Vér verðum þá einnig að vinna að bygging safnaða vorra og kirkjufélags vors.

Kæru vinir! Verið byggingamenn. Verið ekki letingjar; standið ekki hjá aðgjörðalausir, þegar söfnuðrinn yðar er að byggja; sitjið ekki heima, þegar hann heldr safnaðarfund. Þegar eitthvað er til að gjöra, standið þá ekki hjá iðjulausir; látið þá ekki verkið verða að engu fyrir mannleysi. Verið fúsir til að byggja sameiginlega.

Vér Íslendingar þurfum að mörgu leyti nýtt afl í kristindóm vorn. Í sambandi við byggingar er það sérstaklega eitt,

sem er að oss. það kemr öðru hverju fyrir í öllum vorum íslenzka, kristilega félagskap, að menn eru ákaflega duglegir að byggja, vinna með talsverðum hœfileikum og mestu trúmennsku að öllu því, sem söfnuðrinn eða félagskaprinn er að koma í verk. þeir eru settir í embætti; þeim er hrósað fyrir, hvað þeir sé miklir atorkumenn; og fólk hrósar happi, að nú sé það búið að eignast nýja byggingarmeistara, sem mönnum sé óhætt að gjöra sér miklar vonir um í framtíðinni. En gallinn er : þetta varir svo stutta stund. þegar nýja brumið er farið af og mönnum þessum finnst það ekki eins skemmtilegt og í fyrstu að vera í embættum, fara þeir fljótt að draga sig í hlé og fara þá annaðhvort úr félagskapnum, eða standa í honum að eins sem dauðir meðlimir. þessir menn verða þá oft einhverjir hinir aumustu menn í félagsmálum, sem unnt er að hugsa sér.

En vér eigum þó fjölda af mönnum, sem eru betri en þetta. þeir vinna vel og vinna lengi, ef til vill nokkur ár, fá svo vanþakklæti, ónot og skammir, sem þeir alls ekki eiga skilið. þeir berjast móti fáfrœði, vitleysu, smekkleysi, áhugaleysi. Og svo verða þeir dauðþreyttir á öllu saman og fást ekki með nokkru móti til að vinna neitt að hinni sameiginlegu bygging safnaðarins framar. þeir fara sumir úr söfnuði, en aðrir hanga þar eins og núll þaðan í frá. það er ekki hœgt að neita því, að það er þreytanda um langan tíma að berjast við vanþekking, tortryggni og óverðskuldaðar átölur ; en engu síðr er rangt að gefast upp. Slíkt sýnir vantraust á guðs orði og guðs fyrirheitum. ,,þreytumst ekki gott að gjöra, því á sínum tíma munum vér uppskera, ef vér ekki letjumst" (Gal. 6, 9).

það hafa fjölda margir kennt í sunnudagsskólum vorum ; en meiri hluti þeirra hefir gefizt upp eftir nokkurn tíma. það eru tæp 17 ár síðan sunnudagsskóli Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg var stofnaðr ; en ekki veit eg um nema eina manneskju, fyrir utan prest safnaðarins, sem hefir svo mikið sem komizt nokkuð nálægt því, að hafa kennt þar allan þann tíma. Eftir lengri eða skemmri tíma hafa þeir allir orðið þreyttir á því, hafa svo horfið burtu og eru ófáanlegir til að byrja á

starfi sínu nokkurn tíma aftr. Svona er það víst allsstaðar hjá oss; en fyrir nokkrum árum sá eg það í ameríkönsku blaði, að kennari einn í sunnudagsskóla í Peoria, Illinois, hafði ekki verið svo mikið sem einn einasta sunnudag fjarverandi frá skólanum í 37 ár. Það er í þessa átt, sem eg vil að skapist nýr kristindómr hjá oss. Eg vil, að vér reynum til þess af öllum mætti að reka burt þennan vindbólu-kristindóm, þennan þreytu-kristindóm, og að í stað þess komi kristindómr, sem allt af biðr: Ó, drottinn, endrnýja þú í oss stöðugan anda.

Ó, drottinn, gef oss *menn*, menn, sem ekki eru eins og strá, er hrekjast og feykjast fyrir hverjum kenningar-þyt, menn, sem ekki þreytast að byggja, menn, sem aldrei hætta að byggja vel, hvað sem á dynr, svo lengi sem þeir hafa nokkra krafta í sér til þess.

En frá einu sjónarmiði er það, að allir eru að byggja, hvernig sem þeir lifa. Frá því sjónarmiði einmitt er það, sem Páll talar í textanum; en, ó, hve slíkar byggingar eru misjafnar!

Húsabyggingar mannanna eru misjafnar. Það er munr á hinu fegrsta skrauthýsi í New York og hinu aumasta hreysi í eyðiskógum. Þó er eftirtektarverðast, þegar maðr sér hvorttveggja saman, hið fegrsta og hið lélegasta, eins og stundum á sér stað í stórborgunum. Þannig er það í Chicago og þannig er það í New York. Í Chicago eru ljót, óþokkaleg, andstyggileg svertingja-hýbýli örskammt frá hinum fögru heimilum auðugustu manna borgarinnar. Þannig er það einnig í New York, að heimkynni óþverra og hinnar aumustu fátœktar standa rétt hjá húsum, sem auðr og hugvit hafa lagt fram alla sína krafta til þess að gjöra sem allra fegrst. En ef þetta er satt, þegar um húsabyggingar í vestrlöndum er að rœða, þá er það engu síðr satt að því, er snertir byggingar í austrlöndum. Því hafði Páll postuli veitt eftirtekt, og fyrir honum var þetta svo sláandi mynd hins misjafna lífernis manna þeirra, er nefna sig nafni Krists, að hann gat ekki látið hjá líða að benda öðrum á hana. „Byggi menn ofan á þennan grundvöll gull, silfr, dýrmæta steina, tré, hey, hálm,

þí mun verða opinbert, hvílíkt hvers eins verk er; dagrinn mun gjöra það augljóst, því hann mun opinberast í eldi og hann mun prófa, hvílíkt hvers eins verk er."

Já, frá þessu sjónarmiði eru allir svo kallaðir kristnir menn að byggja, og það á meira að segja að heita, að þeir sé allir að byggja á sama grundvelli; en sumir byggja úr hálmi, heyi og tré áhugaleysis, leti og ómennsku. Aðrir þar á móti byggja úr gulli, silfri og dýrmætum steinum dugnaðar, áhuga og kærleika. Hugsaðu þér, kristni vin, að hver einasti dagr auki við bygging þína. Spyr þú svo sjálfan þig á hverju kvöldi: Hverju hefi eg bœtt við bygginguna mína í dag? Hefir það verið hálmr, hey, tré? Eða hefir það verið gull, silfr, dýrmætir steinar? Mundu eftir því, að þegar æfi þín er enduð, verðr bygging lífs þíns prófuð með því að brenna hana í eldi. Þá mun prófast, hvílíkt hvers eins verk er. Það, sem þolir eldraunina, hefir gildi fyrir eilífðina. Mikið skelfilegt tjón, ef byggingin þín er öll úr heyi og eldrinn skilr ekkert eftir! Þú stendr þá, að öllu æfistarfinu enduðu, allslaus frammi fyrir guði, með alls engan árangr af öllu, sem þú hefir reynt til að gjöra, með ekki eina einustu ögn af öllum þeim fjársjóðum, sem þú í lífinu safnaðir. Vinir mínir, er þetta ekki óumrœðilega sorglegt?

Slæmt er líka, þegar byggingin er ýmist hey, hálmr, tré, eða gull, silfr, dýrmætir steinar. Það skemmir samrœmi og fegrð hennar. Bezt væri, að hún öll væri úr því efni, sem getr staðizt eldprófið á efsta degi.

Hvað eigum vér að segja um bygging kirkjufélags vors? Er þar ekki mikið af heyi og hálmi, sem getr valdið falli hennar? Ef svo er, lærum þá að rífa það niðr og byggjum betr. Lúter kunni að rífa niðr, ekki síðr en að byggja upp. Hann varð að rífa fyrst áðr en hann gæti byggt. Eins og vér sem einstaklingar þurfum ávallt að rífa niðr syndaverk vor með daglegri iðran, eins þurfum vér sem kirkjufélagsmenn að gá vel að göllunum frá liðnu tíðinni og reyna að láta þá hverfa eins og þegar hálmr er rifinn úr vandaðri bygging. Um fram allt reynum að vanda bygging vora á þessu þingi. Hver einasta samþykkt, hvert einasta atriði, sem gjört er,

verðr partr byggingarinnar. Hve áríðanda þá, að engir partarnir sé tré vanþekkingar, hey skeytingarleysis, eða hálmr mannlegrar eigingirni, heldr dýrmætir steinar hygginda, silfr kristilegs áhuga og gull hins guðdómlega kærleika.

Verið ekki hræddir við að byggja, því það er betra að gallar komi fram í því, sem byggt er, ef starfað er í einlægni, heldr en að eiga alls ekkert við neitt byggingarverk. Það, sem vér látum ógjört, verðr að holum og hálmi í byggingunni. En komið ekki nálægt helgidómi drottins, til að byggja upp kirkju hans, með hjartað fullt af saurugum heimshvötum. Sérhver hafi gát á, hvernig hann byggir.

Vér stöndum á bygging fyrirrennara vorra og fœrum oss í nyt það, sem þeir hafa gjört vel. Látið dœmi hinna trúu guðs þjóna, sem á öllum tímum hafa unnið að bygging guðs ríkis á jörðinni, verða yðr til uppörvunar í starfi yðar. Þér eruð ekki hinir einu, sem byggja, heldr byggið þér yfir „grundvelli postulanna og spámannanna, hvers hornsteinn Jesús Kristr er, sem öll hin samtengda bygging vex á til heilags musteris í drottni" (Ef. 2, 20—21). Eins og þér þá njótið þess, sem á undan yðr var byggt, eins skuluð þér byggja ekki einungis vel fyrir nútíðina, heldr einnig vel fyrir framtíðina. Látið framtíðina finna sem minnst af hálmi í gjörðum þessa kirkjuþings. Starfið af alúð að málum þess og heitið guði því, að vinna að bygging þess eins vel og guð almáttugr hefir gefið yðr vit til að sjá og eins og þér eruð sannfœrðir um að heilagr andi leiðir yðr.

Með sameinuðum höndum og upplyftum hjörtum stöndum vér hér frammi fyrir hinum heilaga guði og heitum honum því, að byggja—eins vel og oss er unnt—á hinum eina og sanna grundvelli Jesú Kristi.

---

## Missíónarferð til Nýja Íslands.

Eftir ritstjóra „Sam.", J Bj.

---

Mánudaginn 20. Ágúst lagði eg á stað til Nýja Íslands í missíónarferð. Og var konan mín með mér í leiðangri þess-

um. Komum til Mikleyjar með gufubátnum ,,Premier" frá Selkirk næsta dag árdegis.

Hinn 22. prédikaði eg þar í kirkjunni, skírði barn og jarðsöng annað. Degi síðar flutti Helgi Tómasson, sem við höfðum gist hjá, okkr á báti upp að Lundi við Íslendingafljót. Næsta sunnudag, 26., prédikaði eg fyrst uppi í Efri byggðinni í Geysis-skólahúsi fyrir fólki safnaðarins þar (Geysis-safnaðar eða—eins og hann áðr hét—Fljótshlíðarsafnaðar) um hádegi, og síðar, undir kvöld, hið neðra í Lundi, eftir tilmælum séra Odds V. Gíslasonar, prests safnaðarins þar—Brœðrasafnaðar. Á fyrra staðnum skírði eg tvö börn. Mánudaginn hinn 27. prédikaði eg í skólahúsi Ísafoldarbyggðar norðr frá mynni Íslendingafljóts. Og flutti hr. Hálfdan Sigmundsson og annar maðr mig þangað á báti. Á miðvikudaginn, 29. (höfuðdaginn), prédikaði eg fyrir Breiðvíkingum í skólahúsinu að Hnausum. Næsta dag hafði eg með fólki Árnesbyggðar guðsþjónustur á tveim stöðum, í hinu nyrðra og syðra skólahúsi þeirrar byggðar. En á hinum síðarnefnda stað var afarfámennt, því þá var tekið að rigna og mesta rosaveðr komið. En engu að síðr héldum við, eftir stutta, en góða dvöl á Dagverðarnesi hjá hr. Jóhannesi Magnússyni, samdœgrs suðr að Gimli. Fórum þá leið í fremr illri fœrð og seinast í náttmyrkri keyrandi.

Þar dvöldum við svo fram í næstu viku í húsi þeirra hjónanna hr. Kristjáns Paulsonar og konu hans. Föstudaginn og laugardaginn, einkum hinn síðarnefnda dag, var oftast dynjandi rigning og því nálega ófœrt út að koma. Engu að síðr sat eg á föstudaginn stundarkorn á sunnudagsskólakennarafundi með nokkrum af kennurum sunnudagsskólans þar. Voru þeir þar eftir venju saman komnir til að undirbúa sig undir lexíu næsta sunnudags. Og var mér ánœgja eftir því að taka, hve mikla alúð þeir kennarar leggja við sunnudagsskólastarf sitt. Enda þrífst sunnudagsskólinn á Gimli blessunarlega. Frú Þorbjörg Paulson hefir ávallt verið lífið og sálin í því verki, og þarf naumast að taka það fram, að þar hefir, einkum áðr, verið við stór-mikla örðugleika að stríða. Formaðr skólans er nú hr. Björn Sigvaldason, ungr náms-

maðr, með miklum kristilegum áhuga og víst ágætum kennara-hœfileikum.

Fyrra hluta sunnudagsins, 2. Sept., rigndi annað veifið. Þá ók eg suðr til skólahússins við Víðiá, í syðri hluta Víðinesbyggðar, og hafði þar nálægt hádegi guðsþjónustu með nokkrum hóp safnaðarmanna úr því nágrenni. Á undan þeirri guðsþjónustu jarðsöng eg 10 ára gamlan dreng hr. Eiríks Jóhannssonar, sem sat með oss á kirkjuþinginu í Selkirk í sumar. Einnig kastaði eg mold á leiði ungbarns eins, er skömmu áðr var jarðsett og talaði nokkur orð yfir moldum þess.

Eftir klukkan 4 á sunnudaginn prédikaði eg í kirkjunni á Gimli fyrir all-stórum fólkshópi. Eitt barn skírði eg þar. Þetta var síðasti opinberi guðsþjónustufundrinn, sem eg hafði með fólki í Nýja Íslandi.

Allar voru guðsþjónusturnar svo vel sóttar sem eg gat búizt við eftir því, sem á stóð með fœrð og veðráttu. En lang-fjölmennust var guðsþjónustan í Lundi við Íslendingafljót.

Eftir guðsþjónustuna að Hnausum í Breiðuvík voru mér afhentir $7.70, sem skotið var saman þar á staðnum í guðsþjónustulok. Og var sú upphæð nálega eins mikil og það, er eg borgaði í ferðakostnað fyrir sjálfan mig á þessari Nýja Íslands för minni allri.

Við gistum við Íslendingafljót lengst hjá hr. Kristjóni Finnssyni, en einnig hjá hr. Gunnsteini Eyjólfssyni á Unalandi og hr. Jóhanni Briem á Grund, en í Breiðuvíkinni hjá hr. Birni Skaftason. Á ýmsan annan hátt greiddu þessir allir för okkar. Hr. Gunnsteinn ók með okkr suðr að Hnausum. Hr. Baldvin Jónsson í Kirkjubœ reið með þaðan suðr að Árnesi. Hr. Bjarni Marteinsson ók með okkr upp að Geysis-skólahúsi, til guðsþjónustunnar þar. Er eg öllum þessum mönnum stór-þakklátr fyrir góðsemi þeirra, að ógleymdum hr. Helga Tómassyni í Mikley fyrir það, sem hann gjörði fyrir okkr.

Í Ísafoldarbyggð er enn þá enginn söfnuðr myndaðr. En auðheyrt var á mönnum þar, að þeir þrá eigi síðr en aðrir, að kirkjuleg starfsemi fái þar byrjað hið fyrsta. Og á eftir guðsþjónustunni þar var af einum manni í nafni fólksins opin-

berlega lýst yfir því með hlýjum orðum, að það væri kirkjufélaginu mjög þakklátt fyrir þessa komu mína þangað.

Á þriðjudag, 4. Sept., vorum við svo heppin að ná í ,,gasolín"-bátinn ,,Víking" á Gimli og komast með honum þaðan til Selkirk. Næsta dag með járnbrautinni til W.peg.

Séra N. Steingrímr Þorláksson þjónaði fyrir mig Fyrsta lút. söfnuði þann tveggja vikna tíma, sem eg var í þessari missíónarferð.

## Annað bandalagsþing,

sem haldið hefir verið í sambandi við ársþing kirkjufélagsins íslenzka, var sett í kirkju Selkirk-safnaðar, kl. 2 e. m., mánudaginn 25. Júní 1900, af séra Rúnólfi Marteinssyni, forseta bandalaganna sameinuðu í kirkjufélaginu. Byrjað var með því að syngja sálminn 621 í sálmabókinni. Síðan bar forseti fram stutta munnlega skýrslu. Gat hann þess meðal annars, að síðan í fyrra hefði bandalag Þingvalla-safn. að Eyford í Norðr-Dakota liðið undir lok, en aftr hefði nýtt bandalag tilheyranda Lincoln-söfnuði í Minnesota verið stofnað. Enn fremr skýrði hann frá, að bandalag Garðar-safnaðar væri enn eins og áðr fyrir utan þennan félagsskap. Prestr þess safnaðar hefði látið sig vita, að hann byggist naumast við, að því yrði haldið uppi framvegis. Og að eins fyrir þá sök væri það, að það bandalag hefði ekki leitað hér um inngöngu.

Kjörbréfanefndin, er saman stóð af Jakob Johnston og Gunnari Jóhannssyni, lagði því næst fram skýrslu sína um það, hverjir kjörnir erindsrekar, auk prestanna, ætti sæti á þingi þessu. Skýrslan var samþykkt, en þessir voru erindsrekarnir: Jakob Johnston, Kristjana Albert og Theodóra Hermann, frá bandalagi Fyrsta lút. safnaðar í Winnipeg; séra Björn B. Jónsson, frá bandal. Lincoln-safn.; Gunnar Jóhannsson og Gunnlaugr Pétrsson, frá bandal. Pembina-safn.; Bjarni Jones og Gunnar B. Björnsson, frá bandal. St. Páls-safn., og Sigrjón Sigmar, frá bandal. Argyle-safnaða.

Í fjarveru skrifara og vara-skrifara var Theodóra Hermann kosin skrifari fundarins. Öllum kirkjuþingsmönnum og enn fremr þeim Skúla Hannessyni og Ólafi Ólafssyni, er

komnir voru sem erindsrekar frá unglingafélagi Tjaldbúðarsafnaðar í Winnipeg, var veitt málfrelsi á fundinum.

Um inngöngu í félagskap hinna sameinuðu bandalaga sótti bandalag Lincoln-safnaðar í Minnesota, og var sú beiðni veitt. Samþykkt var, að bandalög þau, sem framvegis sœkti um inngöngu í félagsskap þennan, yrði í umsókn sinni að lýsa yfir því, að þau hefði samþykkt grundvallarlög hinna sameinuðu bandalaga.

Næst fór fram kosning embættismanna, og voru þessir kosnir: forseti, séra Rúnólfr Marteinsson; vara-forseti, Gunnar Jóhannsson; skrifari, Theodóra Hermann; varaskrifari, Jakob Johnston; féhirðir, Gunnar B. Björnsson, og vara-féhirðir, Sigrjón Sigmar.

Þá var komið með skýrslur frá hinum ýmsu bandalögum, um ástand þeirra, sumar skrifaðar, en aðrar munnlegar.— Flestar þeirra verða hér síðar prentaðar, þær allar, sem fram voru lagðar ritaðar á fundinum eða síðar voru í letr fœrðar.

Þessu næst fóru um hríð fram umrœður um bandalagsmál.

Síðan var fundinum snúið upp í reglulegan trúmálafund samkvæmt prógrammi, er forseti lagði fram. Var fyrst sunginn sálmr, nr. 170 í sálmabókinni. Þar næst flutti séra Jónas A. Sigurðsson bœn. Þá hófust umrœður út af sérstöku trúmálsefni. Var þar lagðr til grundvallar kaflinn um Maríu frá Magdala á páskadaginn í 20. kap. Jóhannesar guðspjalls, 11. —18. v., með sundrliðan þeirri á efninu, sem sjá má í ritgjörð eftir séra Rúnólf Marteinsson í „Sam.“, Júní-blaðinu síðasta, bls. 61—62. Forseti hóf umrœðurnar. Síðan talaði Bjarni Jones út af fyrsta atriðinu: „María grét, þegar hún hefði átt að fagna“. Þá Gunnar Jóhannsson út af næsta atriði: „María sá engla í gröfinni“. Og síðan Sigrjón Sigmar út af þriðja atriðinu: „María lá ekki á fagnaðartíðindunum, sem hún hafði fengið“. Þessir þrír rœðumenn höfðu fyrirfram undirbúið sig. Því næst töluðu ýmsir aðrir um sama efni eftir því, sem beðið var um orðið.

Á eftir þeim umrœðum söng Theodóra Hermann *sóló*: „Skín ljósið náðar, myrkrin grúfa grimm“ o.s.frv. (þ.e.: *Lead kindly Light* í þýðing Jóns Runólfssonar—„Sam.“ 14, 3).

Þar næst var rœða, sem Mrs. Ingibjörg Bjarnadóttir hélt um það, *hvernig konan getr þjónað drottni.*

Og á eftir þeirri rœðu söng Mrs. W. H. Paulson *sóló:* „Ó, vertu hjá mér, herra; dagr dvín" o.s.frv. (þ. e.: *Abide with me* í þýðing Jóns Runólfssonar—„Sam." 15, 4). Og var það síðasta númer á prógrammi trúmálafundarins.

Þá var aftr tekið til almennra fundarstarfa.

Samþykkt var, að forseti bandalaganna sameinuðu (séra Rúnólfr Marteinsson) skyldi í „Sam." birta leiðbeiningar viðvíkjandi trúmálafundum.

Enn fremr samþykkt, að beðið skyldi um einn dag á næsta kirkjuþingi, allan frá hádegi, fyrir bandalags-fundarhald.

Og loks var samþykkt, að borgaðr skyldi kostnaðr við ferð Ingibjargar Bjarnadóttur á fund þennan. Og í því skyni voru samskot tekin áðr en fundi var slitið.



Um kristnitöku forfeðra vorra og áhrif kristindómsins á líf þeirra flutti séra Eiríkr Briem, prestaskólakennari, einhvern tíma í vor, sem leið, stuttan fyrirlestr í „bandalaginu" í Reykjavík. Og kemr blaðið „Verði ljós!" með það erindi í Maí-blaðinu. Sú ritgjörð er hin ágætasta, og ætti sem flestir að lesa hana vandlega. Þar er mjög skýr grein fyrir því gjörð, hvílíkt alvörumál það hafi verið fyrir Íslendingum til forna, er þeir gengust fyrir því, að kristin trú næði löghelgis-vist á ættjörð vorri, og hve blessunarrík áhrif kristindómrinn hafi svo haft þar á þjóðlífið. Þar er með ómótmælanlegum rökum hrundið þeim hleypidómi, sem iðulega hefir verið haldið á lofti bæði á Íslandi og í útlöndum, að kristnitakan á alþingi árið 1000 hafi lítið eða ekkert annað verið en helgisiðabreyting hið ytra.—Séra Eiríkr lítr augsýnilega alveg eins á þetta mál eins og Christopher Bruun, hinn ágæti og spakvitri Norðmaðr, í greinum nokkrum, er eftir hann standa árið 1897 í tímaritinu „For Kirke og Kultur", út af níu hundruð ára afmæli Þrándheimsbœjar. Og skýrði „Sam." frá þeim greinum hans í Des.-blaðinu 1897 og Jan.-blaðinu 1898.

# Sálmr

út af Jóh. 14, 15.—21., eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Oss barn er fætt í Betlehem.)

1. Ef fórn þú elskar frelsarans,
þú heldr blessuð boðorð hans.
Hallelúja!

2. Ef drottins boð þú heldr há,
þér anda sinn hann sendir þá.

3. Ef andi drottins í þér býr,
þá ert þú maðr orðinn nýr.

4. Ef maðr nýr þú orðinn ert,
þá vin sinn hefir guð þig gert.

1. Ef guð þinn vinr eiginn er,
ert þú í honum, hann í þér.

6. Ef ertu' í guði, elskarðu' hann
og elskar líka lausnarann.

7. Ef í þér ríkir ást til hans,
þig elskar faðir frelsarans.

8. Ef guð sem föður að þú átt,
þá son hans einnig sjá þú mátt.

9. Ef Jesúm Krist hans son þú sér,
þá borgið þér um eilífð er.
Hallelúja!



## *Ársskýrsla bandalags Pembina-safnaðar.*

(Borin fram munnlega, en síðar færð í letr af Gunnari Jóhannssyni.)

Mér er sönn ánægja að geta þess, að þetta síðastliðna ár hefir félagið verið betr vakanda og tekið meiri framförum en hin árin.

Áhuginn fyrir velferð félagsins fer augsýnilega heldr vaxandi, og unga fólkinu lærist smámsaman betr og betr að taka þátt í starfinu á fundunum.

Margt mjög uppbyggilegt, kristilegt og fagrt, hefir verið haft um hönd á fundunum, enda margir þeirra verið til mjög mikilla nota, bæði fyrir unga og gamla, einkum trúmálafundirnir; þeir hafa heppnazt einna bezt. Félagsmenn gjöra sér almennt mjög mikið far um, að þeir geti verið sem beztir og ánægjulegastir. Og er slíkt stórt gleðiefni. Þess skal einnig getið, að framför félagsins á árinu er mest að þakka presti safnaðarins, séra Jónasi A. Sigurðssyni, er lætr sér mjög annt um félagið og hefir tekið þátt í „prógrammi" á hverjum einasta fundi, er haldinn hefir verið á árinu, að einum undanskildum, er hann gat ekki verið á.

Á árinu hefir félagið fengið 11 nýja meðlimi, en 3 hafa gengið úr. Meðlimatala nú 63.

Fundir félagsins hafa verið haldnir reglulega einu sinni í hverjum mánuði og þannig sóttir: flestir á fundi 47, fæstir 14, meðaltal 32.

Peningalega stendr félagið sig fremr vel. Það hefir borgað þá 30 doll. skuld, er það var í í fyrra, einnig $8.50 fyrir bœkr; svo á það í sjóði $14.50. Síðastliðinn vetr keypti bandalagið fyrstu tvær deildirnar af *The Luther League Reading Course*. Er það spor eflaust stigið í rétta átt. Og vonanda, að það leiði til þess áðr langt líðr, að félagið kaupi ekki að eins hinar tvær deildirnar af *The L. L. Reading Course*, heldr einnig fleiri nytsamar og góðar bœkr

Bandalagi voru þótti mjög fyrir, að bandalag Þingvalla-safnaðar skyldi detta úr sögunni, hætta að vera til. Minnir það oss á orð skáldsins, að „það þarf vel að vanda, sem vel og lengi á að standa". Og ef vér viljum, að félög vor lifi bæði lengi og vel, verði meðlimum sínum til sannrar kristilegrar uppvakningar og uppbyggingar, þá verðum vér að láta oss vera mjög annt um þau, og hlúa að þeim sem bezt vér getum. Þótt félagið hafi tekið nokkrum framförum síðastliðið ár og fœrzt talsvert nær því takmarki, er það stefnir að og þráir svo undur heitt að ná, þá á það þó langt í land enn þá — mjög langt. Áhuginn fyrir velferð félagsins þarf að vaxa. Löngunin eftir að láta sér fara fram, vinna kirkjunni sinni og kristninni gagn, og verja hinu stutta og veika lífi sínu í þjónustu kærleikans, framkvæmd hins góða, þarf að verða enn þá sterkari, heitari og innilegri, sérstaklega hjá unga fólkinu. Hún þarf að vera sterkasta aflið í framkvæmdarlífi hvers einstaks meðlims bandalagsins.

## *Skýrsla frá bandalagi Lincoln-safn. í Minnesota.*

(Samin og lesin af séra Birni B. Jónssyni.)

Þetta bandalag er að eins hálfs annars mánaðar gamalt. Í því eru nú 43 meðlimir og allt útlit fyrir, að meðlimum fjölgi all-mikið í næstu framtíð, því ungmenni safnaðarins virðast hafa talsvert mikinn áhuga á málinu. Fyrirkomulag félagsins er svipað fyrirkomulagi hinna annarra bandalaga vorra. Félagið heldr fund annan hvern miðvikudag. Eins og gefr að skilja er frá litlu að skýra frá þessu félagi, þar sem það er svona ungt (hafði einungis haldið tvo fundi) og starf þess að eins í byrjan. Skal þess eins getið, að *von* er um góða og blessunarríka starfsemi þess. Að svo stöddu er ekki um annað en *vonina* að rœða.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.